Aftan við:
Halldór Jakobsson:
Sagan af Gaungu-Hrólfi ... 1804.

Þessi Bók er eign
Mad^me Jardþrúdar Benedictsen
af gjöf hennar föðurmanns
1820.
B. Benedictsen

Þessa bók dróg jeg á
Tombólu á Holtastöðum
á seinasta vetrar dag 1875.

Þorleifur Jónsson
á Stóradal

Jón Borgfirdingur.

# Sagan
af
# Gaungu-Hrólfi
sem inntók
# Nordmandiid.

Samantekin
af
Haldóri Jacobssyni
fyrrum Sýslumanni i Stranda-Sýslu 1804.



Jón Borgfirdingur.



Leirárgordum vid Leirá, 1804.
Prentud á kostnad Høfundsins af
Bókþryckjara M. Móberg.

Háedla
Hra. Justitiarius í þeim konúnglega Lands-Yfirrétti á Íslandi, Júſtitzráð
# Magnus Stephenſen!

Eg hefi tileignað Hr. Júſtitzráðinu þetta Skrif, ſem nú kémur mínum Landsmönnum fyrir ſjónir, og vona og veit Hann muni pardonera djørfúng mína og ſlíka

 fyrir-

fyrirtekt, bidjandi audmjúklega hins sama og óska Justitzrádinu med Háedla Frú og Familie allr-ar heilla og hamíngju frá almátt-ugum Gudi; um tíma og eilífd!

Vídidalstúngu 1804.

Haldór Jacobsson.



## Lesendum Heilsan!

Vída hefir eg í fornum Sögum síed nefnda Sögu af Gaungu-Hrólfi, sem inntók Nordmandíid, en ecki hefir eg verid svo heppinn, ad siá hana neinstadar á voru, eda annara Þióda túngumáli enn þá; ecki hefir eg fundid hana í Assessórs sál. Arna Magnússonar Antiqvitæters Safni edur Bókum á Rundeturni í Kaupmannahöfn. Ecki trúi eg hún se til í Sviaríki in extenso og ecki veit eg hana í einulagi neinstadar til vera nú á dögum, en hún hefir þó til verid, því nefnd er hún hjer og

 hvar



hvar í gömlum Ritum. Ecki held eg Assessór sál. Torfæus hafi sied hana, þó hann gjeti um Hrólf í Historiu sinni Norvegico, og tvíla eg að Assessór Arni Magnússon hafi lesið hana neinstaðar in extenso. Hana þá! hún er hjer talis qvalis eg hefi gjetað mjer tillesið, en öldúngis ecki fullkomin. Eg hefir til þessa Verks Composition notað mjer:

a) Olafs Sögu Tryggvasonar. prentuðu.

b) Landnámu dito m. m. og einkum

c) Prócanceler E. Pontopidans Gesta & vestigia Danorum extra Daniam með fleiru. Hún er offlutt, en nógu laung fyrir þá, sem ecki eru fullnuma í Vísdóminum. Þann lærða Herra Jústitzráð Magnús Stefánson á Innrahólmi hefir eg beðið, að láta prenta hana fyrir mig og uppá minn kostnað, samt endurbæta hana og completere þar sem þarf og mögulegt er *). Eg efast alls ecki um það.

Datum Víðidalstúngu 1804.

Haldór Jacobsson.

*) Sagan er af mjer óumbætt, nema hvað nockur árstöl snertir á einstöku stöðum.
M. St.

Jón Borgfirðingur.

## I. Kap.

Røgnvaldur son Eysteins Glumru tók ríki á Sunnmæri og Nordmæri, samt Raumsdal í Norvegi, ad gjøf Haralds Kóngs Hárfagra. Hann gjørdist Jarl Kóngs yfir þeim ríkjum. Kona Røgnvalds hét Ragnhildur dóttir Hrólfs Nefju, þeirra synir vóru Hrólfur, Ivar og Þórir. Enn átti Jarl þessa 3 fridlu syni, er hétu: Halladur, Hrollaugur og Einar, hann var yngstur þessara þriggja. Á einu sumri fór Haraldur Kóngur Hárfagri vestur um haf med hernadi og lagdi undir sig Hjalltland, Orkneyjar, Sudureyjar og fleiri lønd. Í einhvørri orrustu í þeirri ferd, féll Ivar son Røgnvalds Jarls, gaf þá Kóngur Jarli í sonarbætur, Hjalltland og Orkneyjar, sem hann gaf Sigurdi bródur sínum, sem segir í Søgu Olafs Kóngs Tryggvasonar og vídar. Synir Haralds Kóngs drápu Røgnvald Jarl, søkum ágirndar þeirra og øfundar. Hrólfur fékk

fèr herſkip og herjadi fyrſt nockur ár í Eyſtraſalti, hann var kalladur Gaungu-Hrólfur, þvî hann var ſvo ſtór og þúngur, ad engir heſtar funduſt ſvo ſterkir edur ſtórir, ad gætu borid hann og því hlaut hann optaſt ad gánga. Hann var fridur ſýnum, vel á fót kominn og gefuglegur í yfirbragdi, vel ſkapi farinn, mjúkur og blidur vinum ſínum, grimmur úvinum og meſti hermadur.

Svo bar til á einu ſumri, er Hrólfur kom úr hernadi úr Eyſtraſalti, lendti hann í Víkinni í Norvegi og tók þar ſtrandhøgg mikid, ſèr og mønnum ſínum til matar, ad hermanna ſid og gømlum vana, en Haraldur Kóngur hafdi bannad allann hernad innanlands og lagt ſtór-ſektir vid. Kóngur var ſtaddur ad veitſlu þar ſkamt frá, og er hann heyrdi og frètti þeſſar tiltektir Hrólfs, reiddiſt hann ákaflega, qvad ſlíkt bædi óheyrilegt, ad brjóta ſínar ſkipanir og løg, er hann hafdi øllum ſett í ríkinu og líka blygdunarlauſt, þar Kongur ſjálfur er ſvo nærri, ad forakta þannig hin føgru løg, er útgèfin vóru í landinu fyrir alúa og óborna, meiri

menn

menn og minni, øllum til gagns, dæmdi Köngur því Gaungu-Hrólf útlægann af Norvegi og dræpann og fridlausann, hvar sem hann hittist í því landi. Nær þetta hefir skéd, verdur ecki glögglega frásagt, þó hefir þad tilborid, eptir Hafursfjardar orrustu, sem var hald-in Anno 875, eins og margir skrifa; þá ríkti Adalrádur í Englandi. Har-aldur Köngur kunni og ecki ad dæma Hrólf útlægann úr Norvegs ríki fyrr enn hann var ordinn Einvalds-Köngur yfir sama ríki, sem ecki skédi fyrr enn eptir þann bardaga, svo sem sá nafn-kunnugi Þormódur Torfason hefir ad-gætt í sínum Skrifum. Og ecki fèck Köngurinn þad vidurnafn Hárfagri, fyrr enn Røgnvaldur Jarl gaf hønum þad, eptir greinda orrustu. Karl Dygri var þá Keisari í Þýdskalandi, og ásamt Köngur í Fránkaríki, en Gormur Gamli í Danmørku.

Þegar Ragnhildur módir Gaungu-Hrólfs fèck ad frètta, ad sonur hennar var útlægur gjørr af Kónginum og fridlaus í ríkinu, fór hún á fund Har-alds Köngs Hárfagra og bad hann

mikilega, ad vægja syni sínum og lægja reidi sína, en þad var jafn=nært, svo hún ávann eckért og lét sér þad mjøg mislíka, qvad hún þá vísu eina, er hún skildist vid Kónginn, hvørrar innihald svo byrjar:

Hafnit Nefjo Nafna nú rekit Gand or Landi.

Synist sem þetta skéd hafi, eptir þad Røgnvaldur fadir Gaungu-Hrólfs var undir lok lidinn.

## II. Kap.

Þegar Gaungu-Hrólfur var nú á þann máta, sem sagt er, fridlaus gjørdur í Norvegi af Haraldi Kóngi, safnadi hann samann miklum fjølda af allslags þjóda fólki, sem hann gat fengid, samt skipum og øllu því, er til hernadar þurfti; urdu margir víkingar til ad fylgja honum, og útvelja hann til hefdingja yfir sig, sigldi hann sídan af landi brott og til Sudureyja og gjordist hinn grimmasti hervíkingur, med sínum stallbrædrum, herjadi hann fyrst um Vesturløndin, England og ønnur fleiri, um

2 eda 3 ár. En er hann eitt sinn veitti þar uppráс og átti orrustu vid landsmenn, brendi og eyddi bygdirnar allavega, hvad Adalrádi Kóngi var ecki litil raun, hèllt hann med her sinn á móti Hrólfi; fundust þeir og áttu bardaga samann, fèll margt fólk af hvoru-tveggja lidi, en þó fleira af landsmønnum, fèck hann sigur í þeim bardaga, en landsmenn flýdu vídsvegar, fèck hann þar mikid herfáng, sem annarstadar, hvar hann herjadi, bædi í lausafè lifandi og daudu og líka herleiddi hann mikinn fjølda fólks og drap margt. Svo bar til, eptir einhvørjar slíkar orrustur, ad hann var þreyttur mjøg og hugsadi: hvørt hann skyldi nú snúa sínum hernadi, sofnadi hann þá útaf, og í svefninum, heyrdist honum rødd mikil, er svo mælti: "Hrólfur! stattú upp skjótt, "findu Engla menn, af þeim muntú "heyra, ad þú kémst heill til þíns fød-"urlands og munt þar án skada, njóta "æfinnlegs fridar." Þenna draum sagdi hann einum vitrum kristnum manni, sem svo útþýddi hann, ad med tíma mundi Hrólfur hreinsast fyrir heil. skirn

frá heidinglegri villu og verda Christs þénari, og ad hann mundi komast í Englanna samqvæmi og fá þar endalausann frid med þeim og dýrdlega vist.

En søkum þess, hann var enn mjøg í efa, hvad hann skyldi med sínum stallbrædrum adhafast, edur á hvørs hendur skyldi ófridnum snúa, hvørt heldur ad snúa heim, edur fara til Fracklands ad herja, edur láta fyrirberast í Englandi; dreymdi hann enn þá eina nótt: „ad hañ þóktist vera kominn uppá eitt „mjøg hátt fjall í Fracklandi og sá „þar einn brunn, sem í var mjøg tært „vatn og velluktandi, í honum þóktist „hann þvo af sér kláda og útbrot, sem „á hans líkama vóru. Hann sá undir „fjallinu og kríngum þad sjúga mørg „þúsund fugla med ýmsum litum, þá „sýndust honum þeir raudir á hinum „vinstra væng, sumir meir, sumir minna, „en ecki gat hann fyrir þeirra fjølda „sakir nágvæmlega gætt ad þeirra vexti, „sýndist honum þeir fljúga til brunnsins „á víxl, til ad þvo sig og synda á honum; sá hann þá þar badast, sem fuglar eru vanir, þegar þeir vita á regn„degg.

„dogg. Eptir þad sýndist honum hvør „einn fara þángad, sem hann hafdi ád- „ur verid, med spekt og stillingu, án „allrar deilu og óróa og taka ad sína „sér fædu med nefinu. Sídan báru „þessir fuglar saman med nefjunum ad- „skiljanlega litla qvistu og tóku ad búa „sér hreidur. Undradist hann mjøg þessa „sýn." Og er hann vaknadi, lét hann kalla samann alla sína Høfudsmenn og líka þá herteknu og sagdi þeim øllum skil- merkilega frá vitrun sinni og spurdi þá: hvad slíkur draumur mundi hafa ad merkja? en allir þøgdu vid því. En einn af þeim kristnu faungum, sem bædi var haldinn forvitur og hafdi (ad menn hélldu) spádóms anda, gégndi og qvadst mundi segja Hrólfi, hvad slíkur fyrir- burdur hefdi ad merkja, hvad honum var mikil fýsn á ad heyra.

## III. Kap.

Nú tók sá herleiddi kristni madur til orda og mælti svo: Þad fjall, er þú þóktist vera kominn uppá í Fracklandi, merkir þá kristilegu trú, sem þar er

brúkud, en brunnurinn á fjallinu er skírninn; sá kládi og útbrot, sem þú hafa þóktist, eru þínar stóru syndir og solvirdingar, er þú drýgt hefir, en þar þú þóktist þvo þig í brunninum, þá muntú taka heil. skírn og fyrir hana hreinsast af þínum stóru syndum, endurgétast og hreinsast til einnar lifandi vonar. Þeir adskiljanlegu fuglar, sem vóru raudir á hinum vinstra væng, en gatst ecki svo vel athugad fyrir þeirra fjølda sakir, og af fleiri orsøkum, er fólk af adskiljanlegum londum, sem verda þínir trúir þegnar, af hvørjum þú sást ótelulegann fjolda. Þar sem þú sást fuglana bada sig til skiptis í brunninum, og sídan med rólegheitum tína í nef sitt, munu menn þínir skírn taka og sídan njóta hins h. Altaris sacramentis. Hreidrin í kríngum fjallid, merkir borgir þær og bygg-íngar, er þú munt láta endurbæta og uppreisa í ríki þínu: En þar þér þóktu allir þessir fuglar hlýda þér, muntú stiórna yfir mørgum þjódum. Af þessari draumsins útleggíngu, gladdist Hrólfur mikilega, og lét strax alla þá lausa, er hann þerleidt hafdi, gaf þeim og

gjafir,

gjafir, sendandi hvørn einn frá sér og frjálsann til síns heimkynnis.

Eptir þetta sigldi Hrólfur frá Englandi og tók ad herja ákaflega í Frackslandi, líklega hérum árid 903, deildi sínum skipa flota í 3 parta og héllt til landsins inn í fljótin: Seqvana, Garumna og Legiris. Á Jónsmessu kom hann til stadarins Nannet, brenndi þar, rænti og drap, en herleiddi sumt fólkid. Guivard Biskup, sem þá saung messu, afhøfdudu þeir fyrir Altarinu til St. Terrol. Þessi hernadur skédi 3ur árum eptir þad Hasting hafdi herjad í því landi. Hann fór eins med stadinn Andegau, og margar fleiri borgir og landsbygdir. Í einu klaustri drápu menn hans 126 Múnka, en brenndu þad upp. Í ødru 60 Geistlega. Ádur eda 887 høfdu Nordmenn settst um Parísarborg nærri heillt ár, en urdu jafnnærir frá ad hverfa, en Hrólfur inntók Rúduborg árid 905, og margt fleira høfdust Nordmenn ad á þeim árum í hernadi, ránum, manndrápum og fleiru illu, sem bædi er oflángt upp ad telja, leidinlegt ad lesa, enda ern ecki Historiuskrif-

skrifararnir, samhljóda þar um, hvad á hværju ári skéd hafi. Eptir þetta sigldi Hrólfur med nockrum skipum til Englands, og gjørdi stadfastann frid vid Adalrád Kóng og kom svo aptur til Fracklands sama eyrindis og fyrri.

Af því þessi hernadur Nordmanna var svo mikill og svo vída í landinu, en þeir ærid fjølmennir, svo Frackar treystu sér ecki til, ad standa á móti þeirra makt, urdu landsmenn allir rádþrota, bædi Køngur þeirra og adrir. A einu sumri, líklegast árid 905 lendti Hrólfur sem mælt, vid Rúdaborg í Nordmandia landi; almúgi og adrir beiddu þá í einsugu Franconem Biskup sinn, ad hafa einhvør gód rád til fridstillíngar; hann sendi menn strax til Hrólfs og bad hann fridar fyrir sig og fólkid í landinu, Hrólfur, sem vissi, ad þar var ecki fyrir, nema vopnlaus fátækur almúgi, veitti Biskupi þetta; fór hann þá í land og inn í borgina med sínum mønnum vopnudum, og skodadi hana alla nákvæmlega. Er sagt honum hafi þá í hug komid sinn gamli draumur, og fór sídan aptur til skipa sinna.

IV.

## IV. Kap.

Gaungu-Hrólfur kallar nú saman alla sína Hershöfdingja og Skipstjórnarmenn, spyr hann þá ad: hvad þeim sýnist í þeim kríngumstædum tiltækilegast? en þeir svörudu honum allir í einu hljódi: þetta land er ávaxtarsamt og gott ad sjá, hér eru miklir skógar, stórar eikur, vötnin full af fiskum og skógarnir af villudýrum, sem veidast og etast kunna, en hér vantar vopnad stridsfólk. Vér viljum leggja land þetta undir oss, en nálægra þjóda borgir, kastala og kauptún viljum vér med vopnum inntaka, svo ad vér kénnum med því voru nábúa-fólki, ad vera til frids, sem í kríngum oss er. Máské þetta sé þad, sem þú ádur í sýn hefir ordid var vid.

Hrólfur gladdist af svörum þeim og bad draga upp atkéri, vinda upp seglin og halda á brott til ad herja annarstadar. Nú sigla þeir inn í fljótid Seqvana og flýgur strax um borgir og bygdir sú fregn: ad Nordmenn séu komnir med mikinn fjölda af herskipum og fólki. Frackar urdu mjög óttaslégnir

vid

vid þeirra tilkomu, sem vid eitt skruggu-hljód, kölludu Hasting, sem ádur hafdi herjad í Frácklandi, en nú var ordinn einn af þeirra lands innbyggjurum, kom þar saman vid fljótid Othura ótelulegur fjøldi fólks, þá sagdi Ragnoldur høfdingi alls Fracklands til Hasting: þú ert landsmadur þessa fólks, gef oss nú góð ráð í þessu efni. Hasting svaradi: ef ad þú fyrir 3ur døgum hefdir spurt mig ráda, skyldu eg hafa rádlagt, sem eg hafdi vit á; send nú til þeirra skynsama menn og láttú spyrja þá, svo menn viti þeirra ásettníng. Ragnold svaradi: vér bidjum þig, fardú sjálfur fljótt, og spyr: hvad þeir vilji? Hasting mælti: ecki mun eg fara einn á fund þeirra, Frackar sendu med honum 2 strídsmenn, sem skildu þad danska túngumál vel. Hinir lágu ødrumeginn vid fljótid Othura med sinn her. Sendimenn fóru á backann á móts vid þá og kölludu yfirum, segjandi: Kóngsins Herrar af Fracklandi láta oss spyrja ydur, hvadan þér séud og hverjir? og hvad þér viljid? þeir svørudu: vér erum Nordmenn og Danskir og komum til

ad yfirvinna Frackland, og inntaka þad med hernadi. Hinir svorudu? hvad heitir ydar Høfdingi? Nordmenn segja: vèr erum allir jafnrar maktar. Hasting vildi vita, hvad þeir segdi um sig og sagdi, eptir hverju rikti eru þèr híngad komnir? edur hafi þèr heyrdt gètid um Hasting ydar landsmann, sem híngad herjadi fyrir nockrum árum med mørgu stridsfólki? hans høfum vèr heyrdt gètid, segja þeir, hann birjadi sína herfør vel og lnckulega, en endadi hana illa og med mestu mínkun. Hasting svaradi: vilji þèr gjørast Karli (enum Einfalda) Fracklands Kóngi undirgèfnir og þjóna honum, þá mun hann sýna ydur mikla nád og gjøra vel til ydar? þeir svørudu aldrei gjørumst vèr neinum undirgèfnir og einkis þrælar viljum vèr vera, vèr óskum og ecki velgjørda af neinum, þad látum vèr heita mestu gódgjørdir, ad vera sjálfrádir. Frackar svørudu: hvad ætli þèr ad gjøra? Danir segja: farid brott, sem fljótast og standid ecki þar á backanum, ydar flækjur vardar oss ecki um, og ecki heldur segjum vèr ydur framar vora fyrir-

ætl-

ætlan. Hinir fóru tilbaka og sögdu öllu því franska herlidi frá þeirra vidrædum og hvørs þeir hefdu vísir vordid. Ragnold snéri sér til Hasting og segir: hvad synist ydur, skulum vér ecki birja strid vid þá? þér erud af Danskri þjód og vitid þessa fólks strids atferd og segid fljótt hvad besta rád er. Hasting mælti til stridsfólksins: þessi þjód er úng og sterk, kann vel til hernadar og vopna, hún er reynd í mörgum bardögum og virdist mér þad mikill háski, ad rádast á slika menn.

## V. Kap.

Þá tók til orda einn franskur strids-höfdíngi, ad nafni Rotland: því ráðgist þér um vid þenna mann? einn úlfur fángar aldrei annann, né refur ref. Þetta mislikadi Hasting og svaradi: ecki skal eg eggja ydur Fracka af, ad strida vid þessa menn, þér munud sjálfir sanna, hvernin þad gengur. A medan þessi rádagjörd yfirstód, tók Hrólfur og hans menn til ad byggja skansa af torfhnausum og því, er þeir fengu kríng=

kríngum herbúdir sínar, en létu einn adgáng til þeirra breidann opinn vera og sléttann. Sjer þessarar byggíngar merki og rústir enn í dag.

Franskir fóru allir strax med birtu daginn eptir til Sti. Germani kirkju, heyrdu messu og medtóku þar það heil. Altaris Sacramenti, sídan snéru marg- ir af þeim rídandi ad fljótinu og ridu upp og ofan med því á bøckunum, sáu skip þeirra hinumeginn, þessar umgirdtu herbúdir og það breida port, en Nord- menn sjálfa sitjandi og liggjandi, en suma ad mat þar inni fyrir. Frackar féllu þarmed miklu strídi uppá þá og í portid, skutu á þá og brúkudu adra venjulega strids atferd. Rotland bar fram merki Ragnolds og fór undan med sinni fylkíngu á hid breida gáng- rúm, þenkti hann ad yfirvinna strax þá dønsku gésti og gjøra endir á þeirra íllvirkjum og strídinu. Nordmenn hlífdu sér fyrst med sínum búklurum, en þá hinir nálgudust, fóru þeir á fætur, drápu Rotland og þá honum fylgdu. En Ragnold og Hasting, þá þeir sjá slíkt mannfall af sínu fólki, lögdu á flótta, ásamt

ásamt þeim gjörvalla franska her, sem þar var lifandi og vóru gladir, ad þeir sluppu med lífi. Hrólfur kalladi saman sína menn, sem ellt hefdu flóttann og mælti: hvad illt hefum vér gjört þessum Frønsku, hvar fyrir þeir yfirfalla oss soo? hvarfyrir vilja þeir drepa oss? þeir hafa birjad vid oss fjandskap ad fyrra bragdi og vildu deyda oss, en ecki forsvara. Hvad sem vér gjerum þeim illt hédanaf, mega þeir kénna sjálfum sér og ecki oss. Eja! eydileggjum land þeirra og inntekum þeirra þorp og fasta stadi og borgir og látum þá fá yfirstótanlegann jøfnud fyrir þad illt, er þeir hafa synt oss ad fyrrabragdi. Eptir þetta yfirgáfu Nordmenn strax sínar herbúdir, skundudu til skipa sinna, sigldu til Matlendis, inntóku strax stadinn og eydilegdu, drápu alla borgarinnar fyrirmenn og margt fólk annad, samt herjudu í því landsplátsi ákaflega. Greifi Ragnold safnadi nú enn meiri her enn ádur og leitadist vid enn þá, ad yfirfalla Nordmenn med makt. Þeir þreyngdu sér svo þétt saman, sem þeir gátu, svo bvinunum skylldi synast minni fólks fjøldinn. Ragnold birjadi nú stríd-

strídid aptur, Fröckum til lítils gagns; Nordmenn skutu þá á sinni fylking og med gódri reglu, nidurslóu óvinina, hefdu þeir útvalin vopn, spördu ecki heldur, ad brúka þau, feingu Frackar mörg hörd högg og féllu hvörr um annann þveraun, svo mörgum hundrudum skipti. Ragnold sá nú enn bfarir sinna manna og lagdi med flýti á flótta, honum mætti fiskimadur af Nordmanna fólki og skaut þegar med ör ígégnum hann. Nockrir af þeim franska her, sáu nú sinn höfdíngja drepinn og flúdu allir, en Nordmenn elltu flóttann og drápu marga, en hertóku suma og ráku bundna undan sér til skipa. Þegar menn Gaungu-Hrólfs vóru samankomnir, hefdu bundid sár sín og matast, sagdi hann til þeirra: mínir, kærustu vinir! siglum nú til Parísborgar og leitum ad þeim, sem flúdu frá oss í bardaganum; menn hans qvádu já vid, hlupu þegar á skip sín og sigldu beinleidis til París og settust um stadinn, en hefdu sér til tæripeníngs ránsfé þad, er þeir hefdu ablad sér, bædi af herfángi óvinanna og líka í Metlendis, var þad mikid og margslags.

## VI. Kap.

Þegar Hrólfur med lidi sínu hafdi nú lengi setid um Parísborg forg:fins, tók ad verda vistaskortur hjá Nordmønnum, var og uppgengid mikid af þeirra hersángi, sendi hann því til stadarins Bajoca nockud af stridsfólkinu. Þeir inntóku og rændu þorpin og landid kríngum stadinn, og legdust um borgina. Stadarmenn vørdust af øllu megni, því þeir sáu sér annars daudann vísann og nádu til fánga einum Jarli af Nordmanna fólki, hinum hellsta, sem hét Botho. Nordmenn hrygdust mjøg hér af, og sendu menn, sem skylldu segja Bajoca borgarmønnum, ef ad þér viljid gèfa Bothonem lausann, þá viljum vér eptirláta ydur eins árs frid og hætta svo lengi, ad strída á borg ydar. Þeir gengu þegar á rádstefnu, segjandi sín á milli: oss er betri eins árs fridur af þeim, enn einn Greifi edur Jarl og gáfu Bothonem, sem var einn besti stridsmadur, lausann. En þegar árid var lidid, á hverjum tíma Parísborgar umsátur vorudu, fór Hrólfur med her sinn til Bajoca, inntók, eydilagdi og rænti

rænti borgina, tók margt fólk til fánga, en drap sumt og fékk mikid herfáng. Med-al fánganna var ein mikilsháttar og af-bragds fríd Jómfrú, sem hét Poppa, dóttir eins ágæts fracka Höfdíngja, er nefndist Berengari, húni var og sérdeil-is náttúrugód, vitur og vel ad sér. Þessa meyju tók Hrólfur til sín med mikilli gledi og hafdi hana sér vid hönd. Hann abladi med henni sonar, sem nefndist Vilhjálmur, er sídar vard Hertugi í Nordmandiid, sem seinna mun sagt verda. Medan hann enn nú sat um París, sendi hann strídsfólk til borgar-innar Ebroica, sem átti ad foreyda stad-num, en fánga Biskup þeirra. Biskup-inn, sem hét Sebar, komst undan á flótta, en stadinn eydilagdi strídsfólkid og rændi. Nú bar svo til, ad þeir Engel-sku giördu upphlaup móti Kóngi sínum Adalsteini, vid hvern Hrólfur hafdi ádur giört vinskapar sáttmála, hofdu Ensk-ir giört þetta, meinandi Hrólfur gæti ecki veitt Kóngi styrk til ad standa á mótti sér, þar hann hefdi ærid ad vinna vid Parísborg og í Frackland. Adalsteinn Kóngur sendi med flýti til Hrólfs og

óskar stríðshjálpar, eptir loforði. Hann bráſt vel undir, og baud Parísar mönnum 3 kosti, fyrst að þeir gæfu upp staðinn. Annann, að þeir settu sér gíſla. Þriðja, að þeir héldu við sig strax orrustu. Þeir kusu þann síðarsta, og börðust þeir þá heilann dag, svo hvorugir gátu sigri hrósað. Sjer Hrólfur sér ómögulegt svo fljótt staðinn að vinna, og veik því frá um stund, sigldi til Englands með her sinn og friðstillti upphlaupið, svo þess hefundar gengu til hlýðnis við Kóng sinn. Strax þar eptir hvarf hann til baka og framhellt þeim áður birjuðu umsátrum Parisborgar. Skildi hann áður við Englands Kóng með mikilli vináttu, fékk Hrólfur hjá honum mikinn styrk fjölmennis og fleira, er hann þurfti til sinnar fyrirætlanar og kom vel útbúinn til Fracklands. Hann skipti strax her sinum í 3 parta, skylldi hinn fyrsti fara til Seqvana fljóts, ræna og herja þar allstaðar í kring. Annar til Ligeris sömu erinda, og hinn þriðji til Gerunda, en hann sjálfur qvaðst kyrr vera við París. Nú fréttir Karl hinn einfaldi, Fracka Kóngur allt þetta,

og hvad Hrólfur ítrétti í Englandi, héllt hann rádstefnu vid sína höfdingja og kom þeim saman, ad senda til Rúduborgar eptir Franco Biskupi, sem hafdi gjörst Hrólfi undirgéfinn. Safnadist sídan samann allt þad franska rádaneyti, ásamt Franco Biskupi til rádagjördar í þessum naudum. Kóngur mælti: heidíngjar þessir eydileggja ríkid, svo vér fáum ecki adgjört, eg gét ecki mótstadid Hrólfi med magt, daglega fæckar fólkid og eg missi menn mína, því vil eg bidja Ydur, heil. Fadir! at útvega oss hjá Hrólfi 3ja mánada strídshlé, og, ef hann á þeim tíma vill taka heil. trú og skírn, munum vér audsýna honum stórar velgjördir og sæma þetta fólk med miklum skénkíngum. Franco fer nú til Hrólfs og segir til hans med mikilli áhyggju: Fracka Kóngur segir, þú skulir géfa þeim frid í 3 mánudi, máské menn finni heilnæm rád til ad sætta ydkur. Hrólfur rádfærdi sig hérum vid sína menn og gjördi sídan þetta fridar tilstand um áqvedinn tíma.

## VII. Kap.

Þegar nú Richardur af Búrgúndía og Ebalus Greifi í Pictavía heyrdu, ad þeir Frønsku, veikir til vopna og máttlitlir til mótstødu, høfdu bedid Hrólf um stundar frid, sendu þeir til Frackakóngs og hans vildarmanna, og létu segja þeim: því láti þér heidíngja endileggja ydar eigid land? því reki þér þá ecki brott? edur standid móti þeim? ef þér viljid, skulum vér hjálpa ydur. Frackar urdu gramir af þessum brýxlum, og tóku ad glettast vid Nordmenn, þá fridartíminn var úti. Hrólfur hugsadi, ad Frackar virdtu sig nú litils, fyrst hann hafdi játad fridnum, tók því til ad herja, miklu hardsengilegar, enn ádur, og drepa fólkid en ræna og brenna bygdirnar.

Búrgúndía menn fóru heim, en, Nordmenn fóru yfir allt landid med herskyldi allt til Clairmont. Þegar Hrólfur kom til klausturs Sti. Benedicti, vildi hann ecki ræna þad, né brenna, og ecki nálæg landsplátz, vegna Sti. Benedicts, og þá hann hafdi rekid mikinn hernad á landsbygdinni, snéri hann aptur til

Par-

París. Þegar bændur sáu nú, ad þeir ølfugu frønsku stridsmenn og þeir hørduBúrgúndia lands innbúar, vóru ad engu ordnir, søfnudust þeir saman mørg þúsund, med venjuleg vopn og vildu vada uppá Hrólf. Hann sá fyrst jórreyk mikinn, sem ætíd nálgadist, kallar því saman menn sína og mælti: eg veit ecki hvørt sá fjøldi er rídandi edur gångandi, sem elltir oss, fari fótgaungulid vort áfram, en vèr sem rídum, skulum bída, svo vèr sjáum, hvad hraustir þeir eru, sem vilja drepa oss. Hrólfur beid med sínu riddaralidi og snart komu bændur bædi rídandi og gångandi, en Nordmenn yfirfèllu þá strax og drápu nidur ótølulegann fjølda, svo þar vard hid mesta blódbad, og þá þad var endad, fór riddaralidid og Hrólfur til sinna manna. Strax þar eptir settist hann um borgina Carnútum og brenndi øll landspláts þar í kring. Biskup einn, ad nafni Gvaltelmus hafdi yfirrád stadarins, hann var mjøg sorgandi og sendi til Hertuga Richards og Greifa Ebals í Búrgúndía og Pictavía og bad þá hjálpa sèr, hann sendi einnin til Fracka Köngs, ad segja frá þessum tídindum.

Þeir sem vóru áhángandi Richardi Hertuga, féllu uppá Hrólf vid Carnútar borgarmúr, en hann sló þá strax med sínum monnum á flótta, sem ecki vóru drepnir.

Enn nú tóku þeir Frønsku med Búrgúndía stridsfólki í sig nýjann dug og féllu hardlega uppá Nordmenn sem stódu á moti, féllu margir af hvorutveggjum, samt stód beggja her, allt þar til Biskup Gvaltelmus kom skjótlega med mýtur á høfdi, bagal í hendi og kroß í annari, hafandi skickju hinnar heil. Maríu á handleggnum, sem til meßu búinn. Med honum kom allur Kénnilidurinn alskrýddur, samt vopnad Borgaralid, sem tók ad skjóta á Nordmenn. Þegar Hrólfur sá þetta, vard hann hißa, og bad fólk sitt víkja frá ad ecki yrdi hann í mannþraunginni, edur menn hans og yrdu svo drepnir. Ein fylking Nordmanna komst úr háska þeßum á hæd nockra undir háum fjallshálsi. Greifi Ebal sókti eptir þeim og fór uppá fjallid. Nordmenn skutu ódt og tídt á hann og fólk hans, báru þeir Frønsku med sér jardhnausa þá, sem Nordmenn uppstúngid høfdu til skansa,, í kríngum stadinn, en Nordmenn

menn tóku greinda skans-hnausa frá þeim og brúkudu sér til vígis og varnar. Eşbalus sá nú ad þetta mundi ecki verda sínum mønnum til nota, rídur því til Hertoga Richards, sem var ad slá herbúdum á orrustu vellinum og bad hann umkringja fjallid med herfólki, svo óvinirnir kæmust ecki undan, hvad Hertuginn strax gjørdi, med miklum mannfjølda. Nordmenn søgdu þá sín á milli, er þeir sáu þad: ef vér bídum hér til morguns, drepa þeir oss alla. Einn frá Fríslandi, sem var í þeirra her, sagdi: eg kann hér gott rád á móti, sem duga skal; fari nockrir af oss um lágnætti, med leynd ofan af fjallinu og strax á morgun, í døgun, blási nálægt tjøldum þeirra í lúdra sína, þegar þeir vakna vid slíkt hljód, halda þeir Hrólfur Hersheføingi vor sé kominn og munu slýja svefnóra, hræddir og sundurskildir, en vér skulum hlaupa á þá af hædinni, drepa þá, sem fyrir oss verda, og finna vorn Høfudsmann.

## VIII. Kap.

Strax um lágnætti fóru nockrir ofan til herbúdanna med lúdra sína og í gégnum þær leynilega og tóku strax, sem dagadi, ákaflega ad blása í hornin, skamt frá tiøldunum. Frackar vøknudu vid voudann draum, urdu hræddir og flýdu víds vegar. Hertugi Richard svaf í sínu tjaldi, þar yfirféllu þeir hann, sem af fjallinu komu, striddu ørduglega og nádu vegi þeim sem Hrólfur hafdi farid og frelsudust, komust þeir á eina hæd, sem var umgirdt med mýri og hélldu sig þar. Þeir høfdu med sér fjølda af lifandi dýrum, þeir drápu þau øll, flóu af þeim blódug skinnin, snéru út holdrosanum, og bjuggu sér til hervirki úr þeim og skrockunum øllum blódrisa. Ovinanna Riddara-lid fór um daginn, ad ellta þá og komu ad þessum skansi, er þeim sýndist undarlegur, og segdu sín á milli: hvør vill voga sér móti þessu? hvør þorir ad sást vid þessa blódugu grjótgarda? snéru þeir sídan frá til baka, en hinir fóru áfram til stallbrædra sinna og skipa. Allir þóktust þá úr helju heimt hafa,

en Hrólfur óskadi þeim 'til luckv 'og sagdi: ó! þér rádslyngu og hørdu strídsmenn og stallbrædur! hvørnig gátu þér daudann umflúid? Eptir þetta tók hann enn ákaflegar ad herja og eydileggja allt hvad fyrir var, daudt og lifandi, med mikilli grimd og reidi, bádu margir og óskudu sér hjálpar forgéfins.

Frackar fóru enn á Kóngs fund og ſøgdu allir í einu hljódi; því hjálpar þú ecki ríki þínu, sem ad engu verdur? því óskar og leitar þú ecki fridar? vér megnum ecki ad mótstanda þessu fólki, edur forsvara oss. Kóngur mælti: mjøg sorgfullur; géfid mér, ríkinu og oss heilnæmt og hentugt rád. Frackar søgdu: þad viljum vér gjøra, ef þú trúir oss og brúkar þad. Géfdu þessum heidingjum af landi þínu, frá fljótinu Andella til sjóar ag giptú Hrólfi dóttur þína, svo tengdir takist med yckur, gétur þú þá med hans styrk mótstadid óvinum þínum. Hrólfur er af Kónga- og Hertoga-Ættum, vel á fót kominn og kann í besta máta, til vopna, framsyn, fridgódur vid sitt fólk, trúr vinum sínum, en grimmur óvinum, skarpvitur, lítilát-

ur, réttsýn og flugríkur af lausafé. Kóngur sendi nú strax til Rúduborgar, eptir Francone Biskupi og lét hann fara ad finna Hrólf. Biskup kémur til hans med miklu blídlæti og mælti: Þú ágæti Fursti og mikla Hetja! muntú alla þína lífdaga strída á móti Frønskum? villtú alla æfi deila vid þá? hvørnig fer, ef þú deyr, ádur enn þér sættist? Ef þú villt kristnast, nýtur þú tímanlegs og eilífs fridar. Karl, sá þolinnmódasti Kóngur, vill géfa þér þad land, sem þid Nordmenn hafid svo mjøg fordjarfad og þar med Dóttur sína, Gislam ad nafni til óbrygdanlegs vinskapar, muntú þá gledjast af gøfugu ættspreyngi, miklu ríki og gódum fridi. Þegar Hrólfur heyrdi þetta, kallar hann saman sína yppurstu menn og rádgast um vid þá, hvørju hann skuli nú svara. Nordmenn minntú Hrólf þá á sinn gamla draum og søgdu sídan: landid hefir þú med allra grimmasta hernadi eldúngis eydilagt, en væri þó mjøg ávaxtarsamt, ef nockur manneskja væri til ad yrkja þad. Plátsid er nógu stórt fyrir oss, ad búa í alla saman og vel

hent-

heutugt. Kóngs-Dótturin, sem þér er heitinn, er á allar síður af kónglegu blóði borin og ættuð, dáfríð, eptir sem vér heyrdt høfum og velvaxin. Mundú nú útleggíngu draums þíns! mál er komið fyrir oss alla að hætta hernaði þessum. Vér høfum ysirunnið þá Frønsku. Send því Biskupinn aptur til Kóngs og lát hann segja honum: að, ef Kóngurinn endir þessi loford við þig, sértú viljugur til að hlýðnast honum og gjørast hans Undir-maðnr, trúr vin og Tengda-Son. Gëfðú honum þriggja mánaða frest og finnist síðan á tilteknum stað og tíma í egin persónu, hvar hann gjøri þig fullvissann um endíngu sinna loforða. Allt áðurtalið sagði Hrólfur Biskupi og bað hann reisa, sem fljótast með þessi eyrindi.

## IX. Kap.

Biskup Franco fer nú á fund Karls Fracka-Kóngs, sem lët samankalla alla Biskupa, Hertoga, Greifa og Abóta, samt annað ríkisins vitrasta Ráðaneyti, mikinn fjølda; Innir Franco Biskup þeim greinilega frá sínu eyrindi, þess

efnis, ad Hrólfur Nordmanna Höfdíngi vilji gjøraſt Kóngſins undirſáti og elſkandi trúr vin, med þeim ſkilmála, ſem Kóngur bodid hefir, nefnilega: ad Þér, Herra! (ſegir Biſkup), giptid honum Dóttur Ydar, og hann, fyrir ſig og ſína erfíngja, eigniſt þad lofada landspláts, um aldur og æfi, hér uppá vill Hrólfur géfa Ydur hønd ſína, óſkandi, Þid perſónulega finniſt og ſamantalid um þetta á tilteknum ſtad og tíma. Kóngurinn, fyrir bæn Høfdíngjanna, gaf Dóttur ſína Biſkupinum í vald vegna Hrólfs, ſvo ſem órjúfanlegann pánt óbrygduls vinſkapar. Ad þeſſu útgjørdu og tilgreindu ſamkomu-plátſinu, og tímanum, gjørdiſt fridur milli þeirra allra, og fór hvørr ſídan til ſíns heimkynnis. Hrólfur gladdiſt mjøg af þeſſum fréttum og minntiſt á draum ſinn. En Robert Hertogi, þá hann heyrdi ſlík tídindi, ſendi hann til Hrólfs fridar bodſkap og bréf, í hvørju, ſvo ſtód ſkrifad: „Robert Hertogi í Frackland, ſendir „Hrólfi heilſan ſína: Hann hefir frétt, „ad Karl Kóngur og Hrólfur eru ſátt„ir ordnir og gledſt Hertoginn þar af;

„þú

„þú hefir sýnt þinn mikla manndóm,
„allvídast vegsamadur; já! Hertoginn
„býdur þér af heilum huga og hjarta,
„ad þegar þú lætur skírast og helgast
„til Krists, skuli hann veita þér guds-
„sifjar og munu þid þadan í frá verda
„óbvikulir ástvinir, ef þú villt þad leifa."
Þetta sagdi Hrólfur Franconi Biskupi
og sínum Rádgjöfum, qvadst hann mæta
vilja og finna Kóng, sem þadan í frá,
skyldi gánga sér í födurs stad, en qvadst
vilja unna honum, sem elskulegur sonur.

Nú kom sá tilsetti tími og komu
þeir til þess ánefnda pláts, sem nefnist
ad Sti. Clerum. Hrólfs herlid var
hinumeginn vid fljótid Epta, en Kóngs
og Hertogans Roberts á adra sídu!
strax sendi Hrólfur til Kóngs Fran-
cons Erkibiskups og lét segja honum:
Hrólfur kann ecki ad gjöra frid vid
Ydur, því landid, sem Þér, Herra! hafid
géfid honum, er nú í eydi og allt óplægt,
hefir því hann og hans menn eckért ad
lifa af, géfid honum eitthvad til fædis
og klædis, þar til þad af Ydur géfna
land, aptur fyllist med fólki og ríkdómi
og ecki gjörir hann neinn frid vid Ydur

ur, nema honum sé af Biskupum og Abótum svarid, í sacramenti kristinnar trúar, ad mega halda til eignar, því lands-plátsi, fyrir sig og sína lífserfingja, til egindóms, frá Epta-fljóti til sjafar. Þá svarar Robert Hertogi, ásamt Biskupum, Greifum og Hefdlugjum: Þér Kóngur vyrdid ecki Hertogann svo mikils, ef Þér veitid honum ecki þad, hann bidur, gèfid honum þad, søkum þess, þeir kristnast, frelsid Þér þar med margar sálir úr Satans snørum, hvar í þær eru nú flæktar og komid í veg fyrir ríkisins meiri fordjerfun. Kóngur vildi þá géfa honum Flandurland, en hann vildi ecki. Gaf Kóngur þá Bretagne, sem lá strax vid Neustriam, edur máské réttara sagt part af Neustria; skédi þetta árid 911. Þetta sagdi Biskup Franco og Hertogiun, seldust menn þá gíslum og síðan fór Hrólfur til Kóngs og fundust þeir. Þegar Franckar þeir, med Kóngi vóru, sau Hrólf, undrudust þeir vøxt hans og vænleik, tók hann þá, eptir bodi þeirra, í hønd Kóngi, en Kóngur gaf honum Dóttur sína til egta og þar med þau

lof-

lofudu lønd fyrir alda og óborna til egindóms.

## X. Kap.

Nú var eptir eitt uudirgéfnis teikn, sem Biskuparnir søgdu Hrólfi, ad honum bæfdi ad sýna Kóngi fyri slíka gjøf og veitíngu, en þad var ad kyssa á Hans hægra fót, hann svarar: aldrei kyssi eg nockurs manns fót. En þeir Frønsku bádu hann þá, ad láta einn sinna manna, veita Kóngi þá vyrdíngu. Strax géck einn Nordmanna ad, stód upprèttur, greip í fótinn á Kóngi, svo hann féll á bak aptur upp í lopt, tók þá stridsfólkid ad hlæja mjøg, en sumir ad murra eitthvad med miklum reidi, svip; þó kysti madurinn á hann. Eptir þetta fór Kóngur, Hertogi Robert, Greifar, Hefdíngjar, Biskupar og Abótar vid þad heil. sacramenti Hrólfi og hans mønnum líf og lima frid og ádurnefnd lønd til æfinlegs egindóms fyrir sig og alla eptirkomendur. Sidan fór Karl Kóngur burt, en Erki-Biskup Franko og Hertogi Robert vóru eptir. Annó Kristi 912, skírdi Franco Erkibiskup Gaungu-Hrólf

Hrólf í nafni heil. Þrenníngar, en Robert Hertogi í Frackland hélt honum undir skírn og gaf honum nafn sitt, samt margar adrar stórar gjafir; lét Hrólfur, og sem nú nefndist Robert, skíra allt sitt fólk, og kénna því kristna trú. Sidan kallar Robert hverjum Kónginum sama ár gaf Hertoga nafn, Biskup Franco til sín og spyr eptir: hvørjum þinar hellstu kirkjur, edur heil. mønnum eignadar, séu í sinu landi? Biskup svarar: í Rúduborg hér er ein, í Bajoca ønnur og í Ebroica hin þridja, sem allar eru eignadar hinni heil. Meyu Maríu módur Drottinns vors Jesú Krists og til vyrdíngar henni helgadar. Ef sjóar-háski uppákémur, er ein kirkja, hér á fjallinu, helgud Sti. Michael Høfud-engli, sem hefir lykilinn ad Paradís í sinu valdi. Hér í undirstadnum Rúduborg, er klaustur eitt, sem eignad er Sti. Pétri Postula Krists, þar var grafinn hinn heil. Erki-Biskup Audænus, sem skein af jardteiknum, en hans líkami var fluttur til Fracklands, þegar menn óttudust þinn hernad. Í Gimegia er musteri Sti. Péturs, sem hef-

hefir lykla Himnaríkis, hefir þú, Herra! komid þángad? Fleiri eru enn nú í þinn landi, en þessar eru enar hellstu. Robert svarar: hvorjir heil. menn eru enir hellstu í voru ríki? Biskup mælti: hinn heil Dionysius, griskur ad kynferdi. Robert segir: ádur landinu er skipt, millum minna manna, vil eg ad partur sá sé fráskilinn, sem gēfast skal Gudi og hinni heil. Menu Maríu, samt ádurnefndum heil. englum og mönnum, svo þeir vyrdi mig sinnar adstodar. Franco segir: þenna þánka hefir sjálfur Gud inngēfid þér og gētur þú látid þad ské á þeim 7 dögum, sem þú ert í hvitavodum, eptir skírn þína og smurníngu. Fyrsta daginn gaf Robert Gudi og hinni heil. Meyu í Rúduborg mikid og gott landspláts, sem skyldi tilheyra þeim Geistlegu æfinlega. Annann daginn S. Maríu í Bajoca, þridja St. Maríu í Ebroica, fjórda daginn gaf Robert land til Sti Michaelis Höfud-engils kirkju, fimta St. Peturs og St. Audæni klausturs. Sjötta St. Pēturs og St. Accards af Gunelia, þar sem þeir gemetisku múkar eru? sjöunda S. Dionysio

nyſio landsplátſid Brenneval med til-heyrandi. Þann áttunda daginn af-klæddiſt Hertogi Robert ſinum ſkirnar-klædum og tók ad ſkipta landinu millum manna ſinna og Nárgiaſa, ſamt annara trúrra ſtallbrædra, lét hann vad-draga allt landid, endurbætti allt hvad mogu-legt var og fljótt ſjolgadi, því bædi hans menn og adkomandi bygdu upp allt hvad eydilagt var og endurbættu, ſvo þad komſt í lag á fáum árum. A medan þetta yfirſtód, tók Robert ad búa veitſlu til brúdkaups ſíns, giptiſt hann þá Kóngs-dótturinni Giſlu og ſettiſt í rólegheit og hógliſi.

## XI. Kap.

Þegar Robert Hertogi, ſem ádur hét Gaungu-Hrólfur, var giptur og ſetſtur ad riki ſínn med ødrum Nord-mønnum, Dønſkum, Enſkum og þeim, er hann gat fengid, af allrahanda fólki til ad byggja landid, yrkja þad, plægja og sá, vard þad á ſtuttum tíma mjøg ſvo blómlegt; tók hann ſér þá og fyrir hendur, ad ſetja ſínn fólki løg, til ad lifa eptir. Hann bannadi ſtreingilega

ófrid

ófrid edur óſkick í hvers dags umgéngni, valdi hann adſkiljanlega vitra menn, til ad ſamantaka lögin fyrir alna og óborna, hann endurbætti kirkjur og kapellur í ríkinu og vidrétti allt hvad af hernadinum var eydilagt, ſvo ſljótt, ſem hann gat, múra og feſtíngar kaſtala jók hann og endurbætti kríngum ſtadina, ſem ſkjótaſt; þeir í Bretagne gjördu upphlaup móti honum, en hann þvíngadi þá til hlýdnis med vopnadri makt, lét þá ſídan ſelja ſínu fólki í Nordmandíid, ſvo mikid af matvælum og lifandi ſképnum, ad allir fengu nóg til lífsuppheldis. Hann bannadi undir lífsſtraff allann ránſkap og þjófnad, ſamt ſkipadi hvörjum einum bónda, ſem ſádi og plægdi jörd ſína edur akur, ad ſkilja eptir plóg ſinn og önnur verkfæri, þó hann gengi frá og einginn mætti ſitja hjá nauti ſínu, kú edur heſti, geit edur ſaud, eptir þad gripirnir væru í hagann komnir, ſvo trúlega vildi hann allann þjófnad, rán og miſtökur fyrirbyggja. Akurkarl einn bjó í einum bænda-búſtad á landinu, ſem hét Longavilla: þeſſi plægdi einn dag ſinn akur og þá tíminn var kominn, fór

hann

hann ad borda middegis-mat, en skildi eptir verkfæri sín á akrinum, bædi plóg inn og annad, eptir Hertogans skipan. Kona hans var skapstór og deildi mjøg á mann sinn fyrir þetta, gaf honum slæm ord, og adra ósæmilega mótitekt sýndi hún honum fyrir hyrduleysi í því ad skilja þar eptir á vída-vángi svo nauds-synleg verkfæri, er þau mætti ecki sér til lífsbjargar, án vera. Sídan gaf hún honum matinn, hann affakadi sig sem best hann gat; medan hann var ad borda, hljóp hún út á akurinn og þenkti, ad láta mann sinn meir blygdast; greip plæg-ingar-verkfærin og gróf þau nidur í jørd, kémur svo heim og lét, sem hún hefdi farid á torgid til matar-kaupa fyrir þau. Madurinn hennar stód upp, þá hann hafdi bordad og géck út til síns erfid-is, finnur hann þá hvørgi verkfæri sín, fer hryggur heim og segir konunni frá þessu, hún deildi enn á hann og qvad hann til einkis hæfann, nema jeta sig og

og børn sín út á vergáng, med miklu spotti og íllyrdum. Fardú nú, segir hún, til Hertoga Roberts, hann mun fljótt hjálpa þér. Madurinn fer til Hertogans og segir honum frá missir sínum. Hertoginn segir sínum fèhyrdslu-vørd, ad gèfa bónda þessum 5 peninga, med hverjum hann gæti keypt þad, sem hann misti, skipar honum sídan heim og hafa uppi þjófinn og láta alla sína nágranna, sem þad gèti, hreinsa sig af þessu, med því, ad bera glóandi járn. Nágrannar allir gjørdu þad ljúflega, fannst enginn þeirra sekur, sem ecki var von; þetta fèck Hertoginn fljótt ad vita, lætur hann þá kalla til sín Franconem Erkibiskup og mælti: Gud kristinna manna, í hvørs nafni og eptir hvørs vilja þú hefir skírt mig, má vita hvør þjófurinn er, og þykir mèr furda, ad þad kémst ecki upp, því allir, sem líklegastir vóru, hafa nú borid járn og svarid. Erkibiskup mælti: Þèr megid trúa því, Herra! ad elldur-

ur-

urinn hefir enn nú ecki snert þjófinn. Robert segir: far nú í øll nálæg kauptún og lát þá bera járn, þar til þú finnur hinn seka. Biskup gjørdi svo, en fann engann ad heldur og segir þad Hertoganum, sem strax lét kalla bóndann, svo mælandi: hvørjum hefir þú sagt frá því, ad eptirskildir verkfæri þín á akrinum? hann segir: engum, nema konu minni.

## XII. Kap.

Nú lætur Robert Hertogi kalla konu bóndans til sín og segir til hennar: hvad hefir þú gjørt af plóg og verkfærum bónda þíns? hún qvadst ecki af þeim vita, edur hafa med þau farid. Robert lét taka hana binda og pína til sagna. Medgéck hún þá alltsaman og sagdi, hvar verkfærin væri nidurgrafin og fundust þau þar. Hertoginn sagdi til bóndans: »Vissir þú ad kona þín var þjóf»ur?« eg vissi þad, segir madurinn en leyndi því alla, svo sem eg gat. Robert

vert segir: þú hefir uppá tvøfaldann máta daudann forþénad, fyrst varst þú høfud konunnar og áttir, ad straffa hana þegar hún stal; sídan samþyktir þú í hennar þjófnadi, þar þú leyndir mig því, í fyrstu, ad hún væri þjófur. Lét Hertoginn hengja þau sídan bædi í gálga, hvar þau dóu, en børnum þeirra lét hann rádstafa til uppheldis hjá frómu og skickanlegu bænda fólki. Þetta dæmi fældi alla, sem þad heyrdu frá, ad stela edur ræna, svo enginn þordi þad. Glødduzt allir af gódum fridi og ágætri landstjórn þessa Hertoga. Þordi enginn ad sýna honum ófrid edur óvinskap, né hans mønnum.

Eittsinn sendi Karl Fracka Köngur tvo stridsmanna Foríngja til Gislu Drottníngar dóttur sinnar, í Nordmandíid, heimuglegra eyrinda, hún vildi ecki, ad Hertogi Robert yrdi var vid þessa sendimenn og lét fela þá í afvikuu húsi,

hvar

hvar þeir dvølduſt nockra ſtund; veitti Drottning þeim þar. allt hvad þeir vildu og þurftu, á laun. Hertogans vildarmenn, ſem viſſu af ferdum þeirra, undruduſt, ad þeſſir menn ſáuſt aldrei hjá Hertoganum, ſvo mánudum ſkipti, edur neinſtadar, komu þeir þvi eittſinn til hans og ſegdu: þvi lætur þú oſs ecki vita, hvad ſendimenn Fracka Kóngs vildu híngad? Robert ſvarar: hvad vildu ſendimenn Tengda-fødur mins? hinir ſegdu: þú hefir ofmikid konu ríki og lætur ſvo dátt ad Drottníngu þinni, þeſſir menn fordaſt þinn fund, en eru á vegum Drottníngar þinnar, er þú elſkar meir enn hófi gegnir. Hertoginn reiddiſt mjøg hér af, lét ſtrax leyta ad þeſſum mønnum færa á torgid og drepa opinnberlega. Þegar Fracka Kóngur fêck þad ad vita, ſagdi hann upp øllum vinſkap og fridi vid Hertogann og margt fleira bar þeim á milli, ſem hér ritaſt ecki. En Robert Her-

Hertogi í Fracklandi hellt allt af trúann vinskap vid Hertogann af Nordmandiid.

Rúduborg gjørdi Robert Hertogi ad sinum og sinna eptirkomenda høfudstad og Hertoga-setri, sekum þess honum þókti greindur stadur í morgu þar til hentugastur, bædi vegna nálægdar vid sjóinn og sterkra múra, sem sá stadur var girdtur med, samt annars fleira. Eptir þad tók Drottning hans sótt, er hana leiddi til bana, lét Hertogi gjøra hennar útfør vyrduglega, sem slíkri persónu vel hæfdi. Vid henni átti hann ekkért barn. Gipti hann sig þá aptur sinni gømlu unnustu Poppa, dóttur Berengarii frá Bajoca, hvørrar ádur er getid; eignadist Hertoginn med henni Son, er Vilhjálmur hét og vard Hertogi í Normandiid, eptir fødur sinn, samt eina Dóttur, er Geirlaug nefndist mjøg frída og álitlega.

# XIII. Kap.

Eitthvert sinn í allblídu vedri reid Hertogi Robert i Nordmandiid á jagt, sér til skémtunar, í skóg þar hjá Rúduborg, sem er nálægur fljótinu Sequana og margir menn og höfdingjar med honum. Þegar þeir höfdu veidt og jagad dyrin allt fram á dag, fié Hertoginn af baki vid eitt lítid stoduvatn, sem nefndist Mara, hengdi hann þar í eina eik, eitt gull-legt armband, og þar héck þad í nærstu 3 ár, því enginn þordi ad stela því, og þannin hafdi hann med gódum legum sídad alla sinna ríkja innbyggjara. Eitt hvert sinn eptir þad Karl Fracka Köngur og Robert Hertogi í Nordmandiid vóru ordnir ósáttir út af mörgu, sem milli bar, sendi Robert Hertogi af Fracklandi til nafna síns í Rúduborg og lét segja honum: ad, ef hann vildi, skyldi Robert Fracka Hertogi, koma því í verk, ad Karl Köngur yrdi ad flúa naudugur úr ríki sínu,

þar

þar hann væri nú ordinn mjøg óvinsæll
hjá mørgum af sínum hofdíngum, hvar
fyrir Robert af Rúdúborg sagdi til
sendimannsins: ef ad þinn Herra rídur
ofmikid, er hætt vid, ad hestur hans þreit-
ist. A medan Fracka Kóngur sóar engu
nema sínu, á hann þad frjálst, en þá
almennilegu landstjórn í ríkinu má hann,
med engu móti forsóma.

Hertoge Robert (sem ødru nafni
kallast Gaungu-Hrólfur) af Nordman-
díid, tók nú mjøg ad eldast, svo hann
gat ecki lengur adstadid landstjórnina,
vegna elli og þreitu, er hann hafdi í
hernadi sínum margopt reynt og hraust-
lega útstadid, því lét hann samankalla
allt sitt Rádaneyti, bædi frá Nord-
mandíid og Bretagne, (Britannia) hellt
þeim øllum fyrst ágæta veitslu, í hverri
þeir søgdu til hans í Rúdúborg, med
mikilli lotníngu: "Stórmegtugi
"Hertogi og Herra! nú tekur Þú

"mjøg ad elldast og gêtur ecki lengur "komid oss til hjálpar, framandi víking- "ar og hernadar-menn sækja mjøg á "þessi ríki, ræna og stela frá fólki Þínu "og margt gengur andhælis og illa til; "útvel oss nú, fyrir audmjúka bæn vora "einn høfdíngja, sem oss sé styrkur ad í "øllu því, sem tilfalla kann og gêtur for- "svarad lønd þessi, bædi med vopnum og "laga-vitsku, eins og Þú hefir gjørt, á "medan Þú gatst, viljum vér jafnan vera "honum hlýdnir og elskuríkir undirsátar "med trúskap og vyrdíngu, sem vel sómir." Hertoginn svarar: "Ydur mun þad sýn- "ast hrós vera, ad eg segi: flesta muni "nockud skorta á þad, sem eg vildi vera "vid ydur. Eg á einn son fransk- "ann ad módurætt af ypparlegu slekti, "hvørn Botho vor gamli strídsmanna "Foríngi hefir prýdilega uppfóstrad, samt "kéndt honum góda sidi og stríds-regl- "ur, eg vil bidja ydur, ad útvelja hann "í minn stad til Hertoga yfir þessum lønd-

"um

"um og Forstjóra í ydar naudsynjum. "Hjálpi hann ydur, sem best med rád "og dád í öllu, sem Þér Þurfid og vil- "jid; eg heyri sagt, hann vilji gëfa sig í "klaustur, en Þad vil eg ecki." Höfdingjarnir urdu gladir vid Þetta og qvádust unna honum vel ad njóta bædi arfs og eigindóms ríkjanna og alls Þess, er hann erfa kunni, eptir födur sinn, já! Kóngdóms í Fracklandi, ef svo vildi verkast. Hertogi Robert skipadi Því næst Höfudsmanninum Bothone, ad sækja Son sinn Vilhjálm og leida hann fram fyrir Höfdingjana og til sín. Botho sókti hann strax og leiddi hann fyrir sinn gamla födur. Hertogi Robert lét kalla Herrana til sín og sagdi: "Sjáid! Þar hafi "Þër Þann, Þër umbidjid, honum gëf "eg Þessi lönd og ríki, er eg hefi med "svita og sverdi oss útvegad, samt allann "minn eigindóm og lausafé, sem rëttum "erfingja."

## XIV. Kap.

Hertoginn Robert af Nordmandíid tók nú enn um hægri hönd Vilhjálms Sonar síns og rètti hana ad þeim Höfdíngjum, er nærri vóru og qvadst gjöra þad, sèr til gledi og ánægju, þeir tóku med mestu vyrdíngu og þacklæti móti þeim únga Hertoga, bad sá gamli þá af Bretagne og Nordmandíid med miklum formála strax ad sverja Vilhjálmi hollustu-eida. Greifarnir Berengerus og Alanus, samt allir hinir, bædi Nordmandía-menn og Bretar gjördu þad strax, med einum hug og munni. Vard Vilhjálmur á þeim degi Einvalds-Hertogi yfir Nordmandíid og Britannía í Fracklandi; Hann var frídur madur hár og grannur, kappgjarn og vel annars skapi farinn. Þá mælti sá gamli, „Gud sè þar fyrir vegsamadur, ad eg fæ

„nú,

"nú, ad sjá mitt hold og blód upphafid "til þeirrar tignar, sem eg hefi oss med "mikilli mædu afrekad!" Þessi Vilhjálmur var svikſamlega seinna drepinn ad forlagi Greifans Arnúlphs af Flandern, en Richardur sonur hans kom til ríkis í Nordmandíid, sídan Richardur hans son, þar eptir Robert, fadir Vilhjálms Bastards, er seinna vard Kóngur í Englandi, sem finnst í mörgum Sögum ritad. 4. Richardur Fyrsti átti Emmu, dóttur Hugonis Mikla til fyrri konu og sídan Gunnvöru, vid hverri hann afladi Richards Annanns og fleiri barna, samt Emmu, sem giptist Adalrádi Enska Kóngi og sídan Knúti Kóngi í Danmörk, eptir Svein Tjúguskégg födur sinn í Englandi og Norvegi eptir Olaf Kóng Helga, sem af Sögunum alkunnugt er; sjá menn

hér

hér af, ad frá Hertoga Robert í Nordmandíid, eru komnir þær gefugustu og stærstu Kónga- og Höfdingja-ættir, sem stjórnad hafa á Nordurløndum.

Eptir þad sá gamli Hertogi Robert hafdi lifad eitt ár, frá því, ad sonur hans Vilhjálmur var búinn ad taka vid Ríkisstjórninni og øllum rádum, andadist hann mjøg kristilega, þreyttur af margkyns mædu og mótgángi árid 917. Lét Erkibiskup grafa hann í þeirri sømu kirkju, sem hann hafdi sjálfur stiptad í Rúduborg, á hans Stjórnunar 6ta. ári. Austann til í nefndri kirkju var hans lík nidursett.



Jón Borgfirdingur.

Hrolfr son Rögnvallds Mæra
Jarls fæddur - - - 845.
herjadi i Austurveg 865.
Med 6 herskipum herj-
adi hann i Sudureyum 870.
Fór um haustid til Englands
herjadi i Vest sex vikur
margt fólk, giordi sattmála
vid Alfred kg; fór til Niderlanda 871
átti þar margar orustur og
hafdi jafnan sigur i nokkur ár
sættist vid landsmenn; fór þar
eptir til Frakklands - - - - 876
herjadi, settist um Paris - 877
Samdi vid Carl kong ad herja
ei á Frakkland næstu 12 ár
Fór þadan til England ad hiálpa
Adalstadi Kongi - - - - - 878.
Fór þadan i hernadir - - 881.
Var stundum i Norey á vetrum.
giordur útlegr úr Norey 890.
For til Frakklands aptr - 896.

Intók Rouen og fór um kring 896–897.
Settist nú um Paris og
fleiri borgir i Frakklandi – 898

Við bls. 55. 10. l. n.

Vilhjálms Bastarðar er
getið! „Íslenzkum æven-
tyrum", gefin út af Hugo
Gering. Halle 1882. bls. 300

Bókin er eigendomur
Mad^me Sardprúdar Jonsdottir
Benedictsen hefir gefin
af hennar Ekta-manni
Benedictsen

